# FORNALDARSÖGUR
# NORÐRLANDA.

I. BINDI.



VALDIMAR ÁSMUNDARSON
HEFIR BÚIÐ UNDIR PRENTUN.

TEXTA-ÚTGÁFA.



REYKJAVÍK.
Á KOSTNAÐ SIGM. GUÐMUNDSSONAR.
1885.



# Formáli.

Árin 1829—30 var prentað í Kaupmannahöfn safn af fornsögum enum elztu að tilhlutan ens norrœna fornfrœða félags. Safn þetta var nefnt „Fornaldarsögur Norðrlanda“, og bjó það til prentunar að nafninu danskr maðr, er *Rafn* hét, enn mest munu Íslendingar hafa að því unnið. Þetta safn var í þremr bindum.

Fyrsta bindi þessa sögusafns hefir nú *Sigmundr* prentari *Guðmundsson* endrprentað á sinn kostnað, og kemr það hér fyrir almennings sjónir.

Sögur þessar hafa jafnan þótt merkilegar, og hafa þær verið mjög vinsælar af alþýðu manna hér á landi. Í öðrum löndum hefir og þótt mikið til þeirra koma, og hafa þær því verið settar á prent mörgum sinnum. Skulum vér hér skýra frá helztu prentunum þeirra, svo og þýðingum á öðrum málum.

**I. Hrólfs saga kraka ok kappa hans.**

1737. *Björner*, Nordiska Kämpadater.
1829. *Rafn*, Fornaldarsögur Norðrlanda.

Þýðingar:

1821. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Kæmpe-Hist. I.
1829. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Fortids Sagaer. I.
1715. (latnesk þýðing) *Þormóðr Torfason* (Torfæus).

**Bjarkamál en fornu.**

1829. *Rafn*, Fornald. sög. Norðrl. I.
1883. *Guðbrandr Vigfússon*, Corpvs poeticvm.

Þýðingar:

1689. (latnesk þýðing) *Bartholini*, Ant. Dan.
1778. (þýzk þýðing) *Herder*, Volkslieder.
1779. (dönsk þýðing) *Sandvig*, Danske Sange.
1821. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Kæmpe-Hist. I.
1829. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Fort. Sag. I.

## II. Vǫlsunga saga.

1837. *Björner*, Nord. Kämpadat. XI.
1814. *Hagen*, Altnord. Sagen u. Lieder.
1829. *Rafn*, Fornald. sög. Norðrl. I.
1865. Soph. *Bugge*, Norrøne Skrifter af sagnhistorisk Indhold.
1877. *Wilken*, Die pros. Edda.

Þýðingar:

1822. dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Kæmpe-Hist. I.
1829. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Fort. Sag. I.
1820. (sænsk þýðing) *Arwidsson*.
1857. (þýzk þýðing) *Rassmann*, Die deutsche Heldensage.
1873. (dönsk þýðing) *V. Ullmann*, Sagaen om Völsungerne.
1870. (ensk þýðing) *Eiríkr Magnússon* og *W. Morris*. Völsunga saga.

## III. Ragnars saga loðbrókar ok sona hans.

1737. *Björner*, Nord. Kämpadat. XII.
1814. *Hagen*, Altnord. Sagen u. Lieder.
1829. *Rafn*, Fornald. sög. Norðrl. I.

Þýðingar:

1800. (þýzk þýðing) *Bonstetten*, Neue Schriften, Thl. 2.
1823. (þýzk þýðing) *Hagen*, Nord. Heldenrom. V.
1822. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Kæmpe-Hist. I.
1829. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Fort. Sag. I.

## Krákumál.

1737. *Björner*, Nord. Kämpadat. XII.
1782. *Johnstone*, Lodbrockar quida (ásamt enskri og latneskri þýðing).
1802. *Sjöborg*, Lodbrokar quida (ásamt latneskri þýðing).
1826. *Rafn*, Krakas Maal (ásamt danskri þýðing, latneskri og frakkneskri).
1829. *Rafn*, Fornald. sög. Norðrl. I.
1860. *Pfeiffer*, Altnord. Leseb.
1883. *Guðbr. Vigfússon*, Corpvs poeticvm.

Þýðingar:

1636 og 1651. (latnesk þýðing) *Magnús Ólafsson*, Ol. Wormii, Runir.
1652. (dönsk þýðing) C. Berntzön. Önnur prentun, Kh. 1877.
1763. (ensk þýðing) Th. *Percy*, Fifve pieces.
1779. (dönsk þýðing) *Sandvig*, Danske Sange.
1834 og 1854 (dönsk þýðing) *Petersen*, Danm. Hist. I.
1789. (þýzk þýðing) *Gräter*, Nord. Blumen.
1829. (dönsk þýðing) *Legis*, Fundgruben, I.
(Þar að auki fjölmargar þýðingar aðrar eftir ýmsa.)

**Þáttr af Ragnars sonum.**

1773. *Jón Ólafsson* (frá Svefneyjum), Langebek, Script. rer. Dan. II. (með latneskri þýðing).
1829. *Rafn*, Fornald. sög. Norðrl. I.

Þýðingar:

1822. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Kæmpe-Hist. I.
1829. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Fort. Sag. I.
1872. (sœnsk þýðing) *Söderström*.

**Norna-Gests þáttr.**

1690. Ólafs saga Tryggvasonar. Skálholti.
1737. *Björner*, Nord. Kämpadat. XIV.
1814. *Hagen*, Altnord. Sagen u. Lied. IV.
1829. *Rafn*, Fornald. sög. Norðrl. I.
1860. Flateyjarbók I.
1863. Soph. *Bugge*, Norr. Skrift. af sagnhist. Indhold.
1878. *Wilken*, Die pros. Edda.

Þýðingar:

1822. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Kæmpe-Hist. I.
1829. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Fort. Sag. I.
1828. (þýzk þýðing) *Hagen*, Nord. Heldenromane V.
1857. (þýzk þýðing) *Rassmann*, Die deutsche Heldensage I.

**Sörla þáttr.**

1690. Ólafs saga Tryggvasonar. Skálholti.
1697. Ol. *Rudbeck*. Hist. duor. regum Hedini et Hugonis (með latneskri þýðing eftir Jón Guðmundsson).
1829. *Rafn*, Fornald. sög. Norðrl. I.
1860. Flateyjarbók I.

Þýðing:
1829. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Fort. Sag. I.

**Sögubrot af fornkonungum.**

1719. *Peringskjöld*, Sogubrot af nockorum Fornkongum (með sœnskri þýðing).
1829. *Rafn*, Fornald. sög. Norðrl. I.
Þýðingar:
1824. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Kæmpe-Hist. III.
1829. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Fort. Sag. I.

**IV. Hervarar saga ok Heiðreks.**

1672. Ol. *Verelius*, Hervarar Saga på Gammal Götska.
1785. *Stefán Björnsson*, Hervarar saga ok Heiðreks kongs (með latneskri þýðing).
1829. *Rafn*, Fornald. sög. Norðrl. I.
1847. N. M. *Petersen*, Nord. Oldskr. III.
1873. Soph. *Bugge*, Norr. Skr. af sagnhist. Indhold.
Þýðingar:
1791—1802 (þýzk þýðing) Fr. D. *Gräter*.
1811. (sœnsk þýðing) *Afzelius*, Herwara-Saga.
1826. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Kæmpe-Hist. III.
1829. (dönsk þýðing) *Rafn*, Nord. Fort. Sag. I.
1847. (dönsk þýðing) *Gísli Thorarensen*, Nord. Oldskr. III.

Hér á landi eru sögur þessar kunnastar af „Fornaldarsögum Norðrlanda“, er Rafn gaf út. Sú útgáfa er als eigi vönduð, enn orðamunr ýmissa handrita er sýndr neðanmáls, og er það til mikilla bóta.

*Hrólfs saga kraka* er þar gefin út að mestu eftir papppírshandriti nr. 9 í arkarbroti í safni Árna Magnússonar. Það er ritað á ofanverðri 17. öld og er með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti, er skrifaði upp fjölda af sögum fyrir Brynjólf byskup Sveinsson.

Á landsbókasafninu hér er handrit af þessari sögu í sögubók í safni Jóns Sigurðssonar (nr. 27 í arkarbr.), og er það ritað um sama leyti og handrit síra Jóns, enn

er í mörgum greinum réttara. Ég hefi leiðrétt söguna á fám einum stöðum eftir þessu handriti.

*Völsunga saga* er í Fornaldarsögum Norðrlanda, er Rafn gaf út, tekin eftir kálfskinnsbók í Konungsbókasafni, er rituð er á ofanverðri 14. öld eða öndverðri inni 15. öld (nr. 1824 b. 4o.).

*Ragnars saga loðbrókar og sona hans* er þar og gefin út eftir sömu skinnbók.

*Þáttr af Ragnars sonum* er þar gefinn út eftir Hauksbók í safni Árna Magnússonar nr. 544 í fjögra blaða broti.

*Norna-Gests þáttr* er þar gefinn út eftir skinnbók nr. 2845 í fjögra blaða broti í safni konungs.

*Sörla þáttr* er þar gefinn út eftir Flateyjarbók. Ég hefi hér tekið hann eftir útgáfu Flateyjarbókar í Kristíaníu 1863—68.

*Sögubrot af fornkonungum* er þar gefið út eftir ágætri kálfskinnsbók nr. 1 e. í arkarbroti í safni Árna Magnússonar. Sú bók er talin rituð í byrjun 14. aldar eða í ofanverðri 13. öld.

*Hervarar saga* er þar gefin út í tvennu lagi eftir pappírshandriti 192 fol. Á. M. og Hauksbók nr. 544 4o.

Þær af sögum þessum, sem Sophus Bugge hefir gefið út í „Norrøne Skrifter af sagnhistorisk Indhold“, Kristiania 1864—73, í „Det norske Oldskriftselskabs Samlinger“ VI., VIII. og XVII. eru gefnar út með inni mestu nákvæmni, enn það eru Hálfs saga, Norna-Gests þáttr, Völsunga saga og Hervarar saga ok Heiðreks. Hervarar saga eftir Hauksbók og beztu handritum. Ég hefi að mestu fylgt útgáfu Bugges í Völsunga sögu, Norna-Gests þætti ok Hervarar sögu ok Heiðreks. Þess var full þörf, að prenta af nýju sögur þessar, því að þær gerast nú mjög fágætar. Herra Sigm.

Guðmundsson, er prentar þær nú á sinn kostnað, bað mig að búa þær til prentunar og óskaði þess einungis, að fylgt væri meginmálinu í útgáfu Rafns. Sumar af sögunum eru gefnar út eftir pappírshandritum, og hefði eflaust mátt lagfœra ýms orð í þeim, ef handrit þau, sem eru í söfnunum hér í Reykjavík, hefði verið borin saman við þær.

Stafsetningin á sögunum er eigi öldungis samkvæmileg, enn ég vona, að hún sé þó betri enn í útgáfu Rafns. Ég hefi sumstaðar haldið inum fornu orðmyndum, þó að aðrar orðmyndir sé tíðari. Ég hefi ritað *hun* fyrir *hon*, enn vera má að réttara hefði verið að rita alstaðar *hon*. Þó er *hun* forn mynd og mun hafa verið alltíð um þær mundir, er sögur þessar vóru fœrðar í letr.

Fyrirsagnir kapítula hefi ég samið í Hrólfs sögu kraka, Ragnars sögu loðbrókar og Þættinum af Ragnars sonum. Í Völsunga sögu, Norna-Gests þætti og Sörla þætti hefi ég að eins samið sumar þeirra, enn aðrar eru teknar eftir handritum þeim, er sögurnar eru prentaðar eftir. Í Sögubrotinu af fornkonungum og Heiðreks sögu eru fyrirsagnirnar flestar teknar eftir fornritunum.

Vera má, að ýmis lítils háttar ónákvæmni eða prentvillur hafi slœðzt inn í sögurnar, og sé svo, má því um kenna, að ég hefi haft miklu skemmri tíma til prófarkaralestrs enn ég vildi. Það er og tvent ólíkt, að gefa út fornrit eða bœkr þær sem alment gerast. Enn eg vona, að prentvillurnar sé eigi svo meinlegar, að alþýða geti eigi haft full not af sögunum, og alþýðu eru þær einkum ætlaðar.

Dr. phil. *Jón Þorkelsson*, meistari lærða skólans í Reykjavík, hefir skýrt mér frá ýmsum tilgátum sínum um ýmis óljós orð í vísunum í Ragnars sögu loðbrók-

ar og **Þættinum** af Ragnars sonum, svo sem **hér skal greina:**

**Ragnars saga,** V. kap., 6. **vísa, 14. bls.:**

Þrjár nætr skulum *þessar*
gæti verið: *Þrjár vit skulum þreyja,* því að *nætr* þarf eigi tvisvar.

*hýjar* gæti verið *hösvar* = dimmar.

þá munu mein á mínu
megi til löng of verða,
gæti verið: *ella* mein á *mínum*
megi til löng of verða,

þ. e.: ella verða til (= of) löng mein á mínum megi (syni).

VIII. kap., 2. vísa, 20. bls.:

Brynhildar *leizt* brögnum
gæti verið: Brynhildar *lizt* brögnum.

IX. kap., 2. vísa, 23. bls.:

mun blóði þá *bróður*
gæti vetið: mun blóði þá *bræðra.*

IX. kap., 4. vísa, 23. bls.:

Hlakkar *hrafn* of höfði
hér mínu nú *sýna,*
gæti verið: Hlakkar *már* of höfði
hér mínu nú *sára.*
*ósinna* hér minna,
gæti verið: *ósýnna* = sjónlausra).

IX. kap., 6. vísa:

Þér segju vér *þína*
gæti verið: Þér segju vér, *þínum.*
örlög *sonum* Þóru
gæti verið: örlög *sona* Þóru,
*þeng* spjöll vitum önnur, o. s. frv.,
gæti verið: *engi* spjöll vitum önnur
*enn* nýjari enn þessi,
nú hefk fram komit fögrum,
gæti verið: nú hefk fram komit *fregnum.*

XIV. kap., 1. vísa, 36. bls.:

Spari mangi *rauf* Rínar, o. s. frv.,
gæti verið: Spari mangi *röf* Rínar,
ef *röska vill* hermenn.

XIV. kap., 2. vísa, 36. bls.:
þó *skal ek* þeira ráða o. s. frv.,
gæti verið: þó *skal* þeira ráða.
*Æigils* álnar leygjar,
gæti verið: *ægir* alnar leygjar.
XIV. kap., 3. vísa, 37. bls.:
ór hársíma *grani*,
gæti verið: ór hársíma *gránu*.
XV. kap., 1. vísa, 39. bls.:
þat verðr *mjök mörgu sinni*,
gæti verið: þat verðr *mörgum manni*.
XVI. kap., 1. visa, 40. bls.:
*lézt* heill *mun* af hungri,
gæti verið: *læzt* heill *munu* af hungri.
*seggi* hvar vér létum,
gæti verið: *séi* hvar vér létum.
XVI. kap., 2. vísa, 40. bls.:
Freysleika tók ek heyja,
gæti verið: Freysleik tók ek heyja.
þar lét of grön *granna*,
gæti verið: þar lét of grön *grána*.
at *mennskelku* morði,
gæti verið: at *menskerða* morði
(menskerða væri þá eignarf. fleirt. af menskerðir, mannkenning).

XIV. kap., 2. vísa, 48. bls.:
*bæðhöggr* und sik leggja,
gæti verið: *beðhöggr* und sik leggja.
XX. kap., 2. vísa, 50. bls.:
gafta þú *hafnar* hesti,
gæti verið: gafta þú *hálu* hesti, hála = tröllkona, hálu hestr = úlfr.

XX. kap., 4. vísa, 51. bls.
*heila* vang fyrir hvítum
gæti verið: *heita* vang fyrir hvítum, og getr Bugge þess til í riti sínu um „Rökstenen“, 53. bls.

XX. kap., 5. vísa. 51. bls.:
enn ek sat þar er rá reiði,
gæti verið: enn ek sat þar er *Rán reiddi*.

**Krákumál.**

8. vísa: *háðum* rendr í dreyra,
gæti verið: *hruðum* rendr í dreyra.
15. vísa: hjálms *strenglögar* pálmi
gæti verið: hjálms *strengflaugar* pálmi.
22. vísa: er *aldregi* nístir,
gæti verið: er *ulfgi of* nístir, tg. Sv. E.

Reykjavík, 16. febr. 1885.

*Valdimar Ásmundarson.*

# Helztu prentvillur og leiðréttingar.

---

## I. Hrólfs saga kraka ok kappa hans:

Bls. $83_{10}$ sjaudi fyrir *sjaundi*
— $90_{11}$ Orónar fyrir *Oronar*

## II. Völsunga saga:

Bls. $5_{31}$ fœr fyrir fær
— $13_{16}$ að f. at
— $13_{24}$ (Hun) segir f. segir *seiðkonan*
— $19_{14}$ frœndur f. frændr
— $20_{20}$ sért f. *sér*
— $22_{6}$ var f. *vart*
— $22_{11}$ Þrasanesi f. Þórsnesi
— $32_{6}$ heitir f. hét

Bls. $34_{2}$ og $_{18}$ Reginn f. *Regin*
— $40_{3}$ hlægir f. *hlœgir*
— $50_{22}$ kisti f. kysti
— $52_{12}$ slíka f. *slíkan*
— $71_{8}$ héitum f. hétum'
— $72_{30}$ rœðst f. ræðst
— $91_{31}$ hana f. hann

## III. Ragnars saga loðbrókar ok sona hans. Þáttr af Ragnars sonum. Norna-Gests þáttr. Sörla þáttr. Sögubrot af fornkonungum:

Bls. $5_{24}$ litfögr kona, vetra, f. litf. kona, vetra
— $5_{27}$ hafa skal ek böl nema f. hafa skal ek böl nema *biti*
— $11_{14}$ látit f. *láta*
— $12_{30}$ búast f. *búumst*
— $24_{15}$ og 16 sjer f. *sér*
— $24_{20}$ segi ér f. segið ér
— $24_{30}$ þat er, nauð, kona, dauða f. þat er nauð, kona. *dauðra*

Bls. $48_{2}$ höggvis f. *höggvins*
— $48_{13}$ illau f. *illan*
— $56_{20}$ fárr f. fár
— $62_{8}$ bróðr f. *bróður*
— $78_{23}$ gagnsilfrs f. gangssilfrs
— $81_{21}$ mein f. *meira*
— $117_{27}$ sínum f. sýnum
— $133_{27}$ Störðr f. Störkuðr

FORNALDARSÖGUR NORÐRLANDA.

I.

# HRÓLFS SAGA KRAKA OK KAPPA HANS.

VALDIMAR ÁSMUNDARSON
HEFIR BÚIÐ UNDIR PRENTUN.

TEXTA-ÚTGÁFA.



REYKJAVÍK.

Á KOSTNAÐ SIGM. GUÐMUNDSSONAR.

1884.



# Hrólfs saga kraka ok kappa hans.

## Fróða þáttr.

### I. KAPÍTULI.

*Fróði konungr drepr Hálfdan konung bróður sinn, ok leggr Danmerkr ríki undir sik.*

Maðr hét Hálfdan, enn annarr Fróði, brœðr tveir ok konungasynir, ok stýrði sínu ríki hvárr þeira; Hálfdan konungr var hýrr ok hœgr ok góðlyndr, enn Fróði konungr var enn mesti ribbaldi. Hálfdan konungr átti þrjú börn, tvá syni ok eina dóttur; hét hun Signý; hun var elzt ok gift Sævil jarli. Þetta bar til tíðinda, er synir hans vóru þá ungir; hét annarr Hróarr, enn annarr Helgi. Reginn hét fóstri þeira, ok unni hann sveinunum mikit. Ein ey lá þar skamt frá borginni; bjó þar í einn karl, er Vífill hét; hann var aldavinr Hálfdanar konungs; hunda tvá átti Vífill karl, hét annarr Hoppr, enn annarr Hó. Karl var gagnauðigr, ok kunni margt í fornum fræðum, ef á hann var leitat. Nú er þar

til at taka, at Fróði konungr sitr í ríki sínu, ok öfundar hann fastlega bróður sinn Hálfdan konung, at hann skyldi stýra Danmörk einn, enn þótti sinn hluti ekki hafa orðit svá góðr; því safnar hann saman múg og margmenni, ok heldr til Danmerkr, ok kemr þar á náttar þeli, brennir þar alt ok bælir. Hálfdan konungr kemr lítilli vörn við; er hann höndum tekinn ok drepinn, enn þeir flýja, sem því við koma; enn allr borgarmúgrinn varð at sverja trúnaðareiða Fróða konungi, ellegar lét hann pína þá ýmislegum píningum. Reginn fóstri Helga og Hróars kom þeim undan ok út í ey til Vífils karls; hörmuðu þeir mjök skaðann; sagði Reginn þá mundi fokit í flest skjól, ef Vífill gæti eigi geymt þá fyrir Fróða konungi. Vífill segir: Hér er við ramman reip at draga, enn kvað skyldu mikla til, at hjálpa sveinunum; svá tók hann við þeim, ok lét í eitt jarðhús, ok vóru þar oftast á nætr, enn á daginn viðruðu þeir út um skógarrunna karls, því eyin var hálf skógi vaxin, ok skiljast þeir svá við Regin. Reginn átti miklar eignir í Danmörk, börn ok konu, ok sá Reginn sér eigi annat sýnna, enn ganga til handa Fróða konungi, ok sverja honum trúnaðareiða. Lagði Fróði konungr nú alt Danmerkr ríki undir sik með sköttum ok skyldum; gengu þar flestir nauðigir til, því Fróði konungr var allra manna óvinsælastr, ok svá líka skattgildi hann Sævil jarl. Eftir alt þetta unnit hœgist Fróða konungi lítit, at hann finnr ekki sveinana Helga ok Hróar; setr hann nú geislung fyrir þá á allar síður, nærri ok fjarri, norðr ok suðr, austr ok vestr; heitr þeim stórgjöfum, sem sér kann nokkut segja til þeira, enn þeim, sem þeim leyna, ýmislegum píningum, ef þat verðr uppvíst, ok þykist enginn kunna at segja konungi til

þeira. Þá lætr hann sœkja völvur ok vísindamenn um alt landit, ok lætr þá kanna landit upp ok ofan, eyjar ok útsker, ok finnast þeir eigi; ok nú lætr hann sœkja galdramenn, sem eftir öllu geta rýnt, því sem þeir vilja, enn þeir segja honum, at eigi muni þeir á landi fœddir, enn þó muni þeir eigi fjarri konunginum. Fróði konungr segir: Víða höfum vér þeira leitat, ok þyki mér þat sízt von, at þeir sé hér nærri, enn ey er hér nálægt, þar er vér höfum ekki þrátt um leitat, ok nærri engin bygð í, nema einn fátœkr karl býr þar. Leitit þangat fyrst, sögðu galdramenninir, því mikil þoka ok hulda liggr yfir eyju þeiri, ok verðr oss ekki þangat auðsét um hýbýli karls þess, ok ætlum vér hann forvitra, ok eigi allan þar hann er sénn. Konungr sagði: Þangat skal enn þá leita, ok þyki mér undr, at fiskikarl einn fátœkr skal halda sveina þessa, ok þora svá at halda mönnum fyrir oss..

## II. KAPÍTULI.

*Fróði konungr leitar þeira Hálfdanar sona, Helga ok Hróars.*

Þat var einn morgin snemma, at karlinn Vífill vaknar við ok mælir: Margt er kynlegt á ferð ok flug, ok miklar fylgjur ok máttigar eru hingat komnar í eyna; standið upp Hálfdanar synir, Hróarr ok Helgi, ok haldið ykkr í skógarrunnum mínum í dag. Þeir hlupu í skóginn. Nú fór þetta eftir því, sem karl gat til, at sendimenn Fróða konungs kómu á eyna, ok leita þeira hvarvetna, sem þeim kemr í hug, ok finna hvergi sveinana. Þeim sýnist karl vera heldr skuggalegr, fara þó í burtu við svá búit, ok segja konungi, at þeir kunni þá ekki at finna. Illa munu þér leitat hafa, segir konungr, ok er karl þessi margkunnigr, ok farið nú í stað aftr sömu leið, svá at

karl verði sízt viðbúinn til at bregða þeim undan, ef þeir eru þar. Þeir verða nú at gera svá, sem konungr bauð, fara nú aftr í annat sinn til eyjarinnar. Karl mælti við sveinana: Ekki er ykkr til setu búit, haldið til skógar sem skjótast; sveinarnir gerðu svá. Eftir þat þustu konungsmenn at, ok báðust rannsóknar, ok lætr karl alt opit fyrir þeim standa, ok finna þá hvergi um eyna, hvar sem þeir leita, ok fara svá aftr við svá búit, ok segja konungi. Fróði konungr segir: Nú skal ekki með laufsegli lengr fara at við þenna karl, skal ek fara sjálfr til eyarinnar þegar á morgin; ok svá var nú gert, at konungr fór sjálfr. Karl vaknar ok heldr mœðilega, ok sér nú enn, at skjótt muni verða til ráða at taka; hann mælti við þá brœðr: Þið skuluð kannast við, ef ek kalla hátt Hopp ok Hó, hunda mína; hlaupið þá til jarðarhúss ykkar, ok hafið þat at marki, at þá mun ekki friðr kominn í eyna, ok forðið þið ykkr þar, því Fróði frændi ykkar er nú sjálfr í leitinni, enn hann leitar eftir lífi ykkar með allskyns vígvélum ok brögðum, ok sé ek nú ekki, hvárt ek mun geta haldit ykkr. Karl fer þá til strandar, ok er þá komit konungsskipit; hann lætr sem hann sjái þat eigi, ok læzt skima at fé sínu svá hvatlega, at hann lítr aldrei til konungs né manna hans. Konungr býðr mönnum sínum at handtaka karl, ok svá var gert, ok var hann leiddr fyrir konung. Konungr mælti: Þú ert mikill bragðakarl, ok mjök slœglegr; segðu mér, hvar konungssynir eru, því þat veiztu. Karl segir: Heilir svá, herra, haldið mér ekki, því vargrinn vill rífa í sundr fé mitt. Karl kallar þá hátt: Hoppr ok Hó, hjálpið fénu, fyrst ek má ekki forða því. Konungr mælti: Hvat kallar þú nú? Karl segir: Hundar mínir heita

svá, enn leiti þér nú, herra, sem yðr líkar, enn ekki vænti ek þess, at konungssynir finnist hér, ok mjök undrar mik, at þér ætlið, ek muni halda mönnum fyrir yðr. Konungr sagði: Þú ert víst bragðakarl, enn ekki munu þeir þó í öðru hirðast mega upp frá þessu, þótt þeir hafi hér áðr verit ok væri maklegt, at þú værir af lífi tekinn. Karl segir: Þér eigið þat nú undir yðr; hafi þér þá heldr eyrindi átt í eyna, heldr enn at fara svá búnir. Konungr sagði: Eigi kann ek at láta drepa þik, enn þó ætla ek, at þat sé misráðit; ferr konungr nú heim við svá búit. Karl hittir nú sveinana, ok segir nú, at þeir megi eigi lengr þar vera: Vil ek senda ykkr til Sævils mágs ykkar, ok munuð þið verða frægir menn, ef þið lifið lengi.

## III. KAPÍTULI.

*Fróði konungr býðr Sævil jarli til veizlu, ok fara þeir Hálfdanar synir með jarli at óvilja hans.*

Hróarr var þá tólf vetra, enn Helgi tíu; hann var þó þeira meiri ok frœknari. Þeir fara nú í burt, ok nefndist annarr þeira Hamr, enn annarr Hrani, hvar sem þeir kómu eða fundu menn at máli. Sveinar þessir kómu til Sævils jarls, ok vóru þar viku, áðr enn þeir rœddu um þarvist sína við jarl. Hann sagði: Lítit mannkaup ætla ek í ykkr vera, enn ekki spara ek mat við ykkr um stundarsakir. Þar eru þeir um hríð, ok eru heldr ódælir; ekki verðr þat vitat, hvaða mönnum þeir eru, eða ætt þeira; ekki grunar jarl þá, enda gera þeir honum engan kunnigleika um hagi sína. Þat segja sumir menn, at þeir muni með geit-um vera fœddir, ok dára þá, því þeir vóru jafnan í kuflum, ok tóku aldri ofan kuflhöttuna, ok ætluðu þat margir, at þeir mundu hafa geitr; þeir eru þar upp á

þriðja vetr. Ok eitthvert sinn býðr Fróði konungr Sævil jarli til veizlu, ok er honum þar helzt grunr á, at hann muni halda sveinana fyrir tengða sakir. Jarl býst nú til ferðar, ok er fjölmennr; sveinarnir bjóðast til at fara með honum; jarl kvað þá eigi fara skyldu. Signý kona jarls var ok í ferðinni. Hamr fær sér eitt ótamit trippi at ríða, er Helgi var reyndar; hleypir nú eftir liðinu, ok horfir aftr til hala, ok lætr sér alla vega heimsklega. Hrani bróðir hans fær sér reiðskjóta annan eins, ok horfir réttleiðis. Jarlinn sá nú til, at þeir fara eftir sér, ok fá eigi ráðit við reiðskjótana; hlupu flókatrippin aftr ok fram undir þeim, ok rekr ofan kuflhöttinn af Hrana. Þetta getr at líta Signý systir þeira, ok kennir hun þá þegar, ok grætr mjök sárt. Jarl spyrr því hun gráti. Hun kvað þá vísu:

Öll er orðin
ætt skjöldunga
lofðungs lundar
at limum einum;
brœðr sá ek mína
á berum sitja,
enn Sævils rekka
á söðluðum.

Jarl sagði: Mikil tíðindi, ok lát eigi upp koma; hann reið þá aftr til þeira, ok bað þá aftr dragast; segir mikla smán að þeim í góðra manna föruneyti; vóru þá sveinarnir báðir gangandi. Enn því mælti hann svá, at hann sá við, svá eigi mátti af hans orðum ráða, hvaða sveinar þeir væri. Þeir skotta nú við utan, og vilja ekki aftr snúa at heldr, ok ríða nú í síðara lagi; koma þeir nú til veizlunnar, ok hlaupa aftr ok fram eftir höllinni; ok eitt sinn berr þá þar at, sem Signý systir þeira var. Hun mælti til

þeira heldr lágt: Verið ekki í höllinni, því lítill er þroski (ykkarr); þeir gefa ekki gaum at því. Fróði konungr hefr upp þat mál, at hann vill láta leita at sonum Hálfdanar konungs, ok segist þeim munu mikinn sóma veita, sem sér kann að segja til þeira. Völva ein var komin, sem Heiðr hét; hana bað Fróði konungr at neyta listar sinnar og vita, hvat hun kynni at segja til sveinanna; gerði hann þá gilda veizlu í móti henni, ok setti hana á seiðhjall einn háan. Konungr spyrr þá, hvat hun sæi til tíðinda, því ek veit, sagði hann, at nú mun margt fyrir þik bera, ok sé ek nú mikla gæfu á þér, ok svara mér sem skjótast, seiðkona. Hun slær þá í sundr kjöftunum ok geispar mjök, ok varð henni þá ljóð á munni:

Tveir eru inni,
trúi ek hvárigum,
þeir er við elda
ítrir sitja.

Konungr mælti: Hvárt eru þat sveinarnir, eða þeir, sem þeim hafa bjargat? Hun svarar:

Þeir er í Vífilsey
vóru lengi,
ok hétu þar
hunda nöfnum,
Hoppr ok Hó.

Ok í því kastaði Signý til hennar gullhringi; hun varð glöð við sendinguna, ok vill nú af bregða. Því varð nú svá? sagði hun, ok er þetta lygð ein, er ek segi, ok villist nú mjög spádómr minn allr. Konungr mælti: Þik skal pína til sagna, ef þú vilt eigi þiggja et bezta, ok veit ek nú eigi gerr enn áðr í svá miklu fjölmenni, hvat þú segir, eða því er Signý ekki í sæti sínu, ok kann vera, at hér ráði vargar með úlfum. Konungi var sagt, at Signý væri sjúk orðin af reyk

þeim, sem af ofninum legði. Sævill jarl biðr hana sitja upp ok bera sik hraustlega, því margt kann at verða sveinunum til lífs, ef þat á til að vilja, ok láttu sem sízt finna á þér, hvat sem þér þykkir, því vér megum ekki at hafast at svá búnu at hjálpa þeim. Fróði konungr herðir nú at seiðkonu fast, ok biðr hana segja et sanna, ef hun skuli ekki pínd verða; hun gapir þá mjök, ok verðr erfiðr seiðrinn, ok nú kvað hun vísu:

Sé ek hvar sitja
synir Hálfdanar,
Hróarr ok Helgi,
heilir báðir;
þeir munu Fróða
fjörvi ræna,

nema þeim sé fljótt fyrirfarit, enn þat mun eigi verða, sagði hun; ok eftir þetta stiklar hun ofan af seiðhjallinum, ok kvað:

Ötul eru augu
Hams ok Hrana,
eru öðlingar
undra djarfir.

Eftir þat hlupu sveinarnir út, ok til skógar með mikilli hræðslu; kendi Reginn fóstri þeira þá, ok þótti mikit um. Enn þat heilræði kendi völvan þeim, at þeir skyldi forða sér, þá hún hljóp utar eftir höllinni; ok nú biðr konungr menn upp spretta, ok leita eftir þeim. Reginn slökkvir nú öll ljósin í höllinni, ok heldr nú maðr á manni, því at sumir vildu, at þeir kœmist undan, ok með þetta kómust þeir til skógar. Konungr mælti: Nærri gengu þeir nú, ok munu hér vera margir í ráðum ok brögðum með þeim, ok grimmlega skal þessa hefna, þegar tóm er til; enn drekka munum vér nú mega kveldlangt, því þeir

munu því hafa fegnir orðit, at þeir hafa í burt komizt, ok munu nú fyrst leita at forða sér. Reginn gengr at byrla mönnum, ok bar á þá ölit með ákafa, ok margir aðrir með honum vinir hans, svá at þar fell hvárr um þveran annan niðr sofandi.

## IV. KAPÍTULI.

*Hálfdanar synir bera eld at höll Fróða konungs.*

Þeir brœðr sitja nú í skóginum, sem áðr er sagt, ok er þeir höfðu verit þar um hríð, gera þeir at líta, at maðr ríðr þangað at þeim heiman frá höllinni; þat kenna þeir all-glögt, at þar er kominn Reginn fóstri þeira; verða þeir honum fegnir, ok heilsa honum vel. Hann tekr ekki kveðju þeira, enn víkr hesti sínum heim aftr þaðan at höllinni; þeir undra þetta, ok rœða um með sér, hverju þetta muni gegna. Nú snýr Reginn til þeira hestinum í annat sinn, ok lætr ófrýnlega, sem þá ok þá muni hann at þeim vinna. Helgi segir: Skynja þykist ek, hvat er hann vill. Fór hann nú heim til hallar, enn þeir eftir. Því lætr fóstri minn svá, segir Helgi, at hann vill ekki rjúfa eiða sína við Fróða konung, ok vill því ekki við okkr mæla, enn þó vill hann gjarna hjálpa okkr. Lundr einn stóð nærri höllinni, er konungr átti, ok sem þeir kómu þar, þá mælti Reginn við sjálfan sik: Ef ek ætti stórar sakir við Fróða konung, skyldi ek brenna upp lundinn. Ekki mælti hann fleira. Hróarr mælti: Hvat mun þetta? Þat vill hann, segir Helgi, at við fõrum heim til hallarinnar, ok berum at eld nema at einni útgöngu. Hvat munum við þat mega, ungmenni tvau (segir Hróarr), slíkt ofrefli sem fyrir er. Svá skal vera þó, sagði Helgi, ok munum við eitthvert sinn verða til at hætta, ef við skulum hefnt geta harma

okkarra; ok svá gera þeir. Þessu næst er Sævill jarl út kominn ok allir hans menn. Hann mælti þá: Aukum nú eldana, ok veitum lið sveinum þessum; er mér enginn vandi við Fróða konung. Fróði konungr átti tvo smiði, er völundar vóru at hagleik; hétu báðir Varr. Reginn heimti út lið sitt at hallardyrum, vini sína ok tengðamenn.

## V. KAPÍTULI.

*Fróði konungr inni brendr.*

Fróði konungr vaknar nú í höllinni, blés við hátt ok mælti: Draum hefir mig dreymðan, sveinar, ok ekki byrlegan; mun ek segja yðr hann: Mik dreymði þat, at mér þótti vera kallat á oss, ok var mælt svá: Nú ertu kominn heim, konungr, ok þínir menn; ek þóttist svara ok heldr stygt: Heim hvert? Þá bar kallit svá nærri mèr, at ek hafða veðrit af þeim, sem kallaði; heim til heljar, heim til heljar, sagði sá, sem kallaði, ok við þat vaknaði ek; ok í þessu heyra þeir utar til hallardyra, at Reginn fóstri kvað vísu:

Reginn er úti
ok rekkar Hálfdanar,
snœfir andskotar,
segið þat Fróða.
Varr sló nagla,
ok Varr höfðaði,
enn varr vörum
varnagla sló.

Þá mæltu konungsmenn, er inni vóru, at þetta væri lítil tíðindi, þó at Reginn væri úti, eða konungssmiðir smíðuðu, hvárt sem þeir gerðu nagla eða annat smíði. Konungr mælti: Þykir yðr þetta engin tíðindi? eigi mun oss at því verða, nú mun Reginn hafa sagt oss fyrir nokkurn ótta, ok hefir hann gert mér var-

úðarbending, ok mun hann oss slœgvitr ok brögðóttr; gengr konungr þá til hallardyra ok sér, at ófriðr er úti fyrir; tekr þá höllin öll at loga. Fróði konungr spyrr, hverr fyrir eldinum réði. Þeir sögðu, at fyrir honum réði Helgi, ok Hróarr bróðir hans. Konungr býðr þeim sætt fyrir sik, ok bað þá eina ráða þeira í milli, ok ferr þetta óskaplega í millum vár frænda, at hvárr skal vilja vera banamaðr annars. Helgi segir: Enginn má þér trúa, ok muntu okkr siðr svíkja enn Hálfdan föður minn? ok nú skaltu þess gjalda. Fróði konungr sneri þá frá hallardyrum ok til jarðhússmunna síns, ok ætlaði svá til skógar at forða sér; ok sem hann kemr í jarðhúsit, er þar Reginn fyrir ok ekki mjök friðlegr; snýr konungr þá aftr, ok brennr þar inni, ok margt lið með honum. Þar brann inni Sigríðr, móðir þeira brœðra Helga ok Hróars, því hún vildi ekki út ganga. Þeir brœðr þökkuðu góða liðveizlu Sævil jarli, mági sínum, ok Regin fóstra sínum ok öllum lýð, ok gáfu mörgum góðar gjafir, ok tóku svá ríkit undir sik ok alla fjárhluti, sem Fróði konungr hafði átt, lönd ok lausafé. Þeir voru ólíkt skapi farnir brœðr; Hróarr var maðr hýrr ok hœgr, enn Helgi hermaðr mikill, ok þótti alt meira til hans koma, ok leið nú svá fram um hríð; ok endar hér nú Fróða þátt, enn upp byrjast frá Hróari ok Helga, Hálfdanar sonum.

## Helga þáttr.

### VI. KAPÍTULI.

*Frá kvánfangi Hróars ok fleira.*

Konungr hét Norðri; hann réð fyrir nokkurum hluta Englands; hans dóttir hét Ögn. Hróarr var löngum með Norðra konungi, honum til landvarnar ok styrktar, ok var með þeim en mesta vinátta, ok um síðir gekk Hróarr at eiga Ögn, ok settist þar at ríki með Norðra konungi mági sínum; enn Helgi réð fyrir Danmörk á föðurleifð þeira. Sævill jarl réð fyrir ríki sínu ok þau Signý; Hrókr hét son þeira. Helgi konungr Hálfdanarson í Danmörk var ókvæntr. Reginn tók sótt ok deyr; þat þótti mönnum mikill skaði, því hann var vinsæll.

### VII. KAPÍTULI.

*Helgi konungr leitar ráðahags við Ólufu Saxa drotningu.*

Fyrir Saxlandi réð í þann tíma ein drotning, er Óluf hét; hun var á þá leið, sem herkonungar; fór hun með skjöld ok brynju, ok gyrð sverði ok hjálm á höfði; þannig var henni háttat: væn at yfirliti, enn grimm í skapi ok stórmannleg; þat var mál manna, at sá væri beztr kostr í þann tíma á Norðrlöndum, er menn höfðu spurn af, enn hun vildi þó engan mann eiga. Helgi konungr frétti nú til drotningar þeirar ennar stórlátu, ok þótti sér mikill frami í aukast, at fá þessarar konu, hvárt sem henni væri þat viljugt vel eða miðr; ok einhverju sinni fór hann þangat með miklu herliði. Hann kom þar við land, er þessi en ríka drotning réð fyrir, ok kemr þar á óvart; hann sendi

menn sína heim til hallar, ok biðr at láta segja Ólufu drotningu, at hann vili þar veizlu þiggja með sínu liði. Sendimenn segja þetta drotningu, ok kom þetta á hana óvart, ok var enginn kostr liði at safna; tók hun þá þenna af, sem betr var, at hun býðr Helga konungi til veizlu með öllu liði sínu. Helgi konungr kemr nú til veizlunnar, ok skipar hásæti hjá drotningu; drekka nú bæði samt um kveldit, ok skortir þar ekki neitt, ok fann enginn ógleði á Ólufu drotningu. Helgi konungr mælti til drotningar: Svá er háttat, sagði hann, at ek vil, at við drekkum brullaup okkart í kveld; er hér nú œrit fjölmenni til þess, ok skulu við bæði byggja eina rekkju í nótt. Hun sagði: Ofbrátt, herra, þykir mér að þessu farit, enn eigi þykir mér annarr maðr kurteislegri enn þú, ef ek skal þat verða upp at taka at þýðast karlmann, enda vænti ek, at þér vilit þat eigi með svívirðingu gera. Konungr sagði, at henni væri þat maklegt fyrir dramblæti sitt ok stórlæti, at við búum nú bæði saman slíka stund, sem mér líkar. Hun sagði: Kjósa munu vér hér fleiri vára vini, ok get ek nú ekki atgert, ok munu þér hljóta at ráða, ok munu þér sœmilega til vár gera. Var þá drukkit fast um kveldit, ok lengi á nótt fram, ok er drotning allkát, ok finnr enginn annat á henni, enn hun hyggi allgott til ráðahagsins; ok um síðir er honum fylgt til sængr, ok var hun þar fyrir. Konungr hafði drukkit svá fast, at hann fell þegar sofandi niðr í hvíluna: drotningin neytir nú þessa, ok stingr honum svefnþorn; ok sem allir menn eru í burtu gengnir, þá stendr drotning upp; hun rakaði þá af honum hárit alt ok neri í tjöru; síðan tók hun eitt húðfat, ok lét þar í koma nokkur klæði; eftir þat tekr hun konunginn, ok reifar hann innan í þessu húðfati; síðan fær hun

til menn, ok lætr flytja hann til sinna skipa; hun vekr þá upp menn hans, ok segir, at konungr þeirra sé til skipa kominn, ok vili sigla, því nú sé kominn góðr byrr. Þeir hlupu upp, hverr sem skjótast mátti, ok voru ölóðir, ok vissu ógerla, hvat þeir höfðust at; svá komu þeir til skipa, ok sáu hvergi konunginn, enn eitt mikit húðfat sáu þeir þar komit; vilja þeir nú forvitnast, hvat í er, ok bíða svá konungsins; ætla hann muni koma nokkut síðarr; enn þá þeir hafa leyst, finna þeir þar í konung sinn svívirðilega leikinn; hrýtr þá í burtu svefnþorninn, ok vaknar konungr eigi við góðan draum, ok er nú í illu skapi til drotningar. Enn í annan stað er þat at segja, at Óluf drotning safnar liði um nóttina, ok skortir ekki fjölmenni, ok sér Helgi konungr sér nú ekkert fœri á hana at leita. Þeir heyra nú lúðragang ok herblástr á landit upp; sér konungr at sá muni vera vænstr, at halda í burt sem skjótast; er þá ok góðr byrr; siglir Helgi konungr nú heim í sitt ríki með þessa sneypu ok svívirðing, ok unir nú stórilla, ok hugsar oft, hversu hann megi fá á drotningu hefnt.

## VIII. KAPÍTULI.

*Helgi konungr fær Ólufu drotningu með brögðum á sitt vald.*

Óluf drotning sitr nú í ríki sínu um hríð, ok hefir hennar ofsi ok ójafnaðr aldrei verit meiri enn nú; hefir hun nú á sér varðhöld sterk eftir veizluna, sem hun gerði Helga konungi. Þetta spyrst nú víða um lönd; þykir öllum en mestu ódœmi, er hún skyldi hafa spottat slíkan konung. Ok eigi miklu síðarr heldr Helgi skipi sínu úr landi, ok í þessarri ferð kemr hann skipi sínu við Saxland, þar sem Óluf drotning á atsetu; hefir hun þar mikit fjölmenni

fyrir; hann leggr skipi sínu í einn leynivág, ok mælti síðan við lið sitt, at þeir skyldu hans þar bíða til ennar þriðju sólar, enn fara þá leið sína ef hann kœmi þá eigi aftr. Hann hafði með sér kistur tvær, fullar af gulli ok silfri; hann fær sér vándan búning yztan klæða; síðan ferr hann leið sína til skógar, ok varðveitir þar féit, gekk síðan í burt, ok í nánd við höll drotningar; hann hittir einn þræl hennar fyrir sér, ok spyrr hann tíðinda burt úr landi. Hann segir frið góðan, þrællinn, ok spyrr, hverr hann væri; hann lézt vera einn stafkarl: enn þó hefir mér til handa borit mikill fjárfundr í mörkinni, ok lízt mér ráðlegt, at sýna þér, hvar féit er; ganga nú aftr til skógar, ok sýnir honum féit, ok þykir þrælnum mikils vert, hvert happ hann hefir sótt. Hversu fégjörn er drotning? segir stafkarl; þræll segir, hun væri kvenna fégjörnust. Þá mun henni líka, segir stafkarl, ok mun hun þykjast þetta fé eiga, er ek hefi hér fundit; því þetta mun land hennar; skal nú ekki gera happ sitt at óhappi, ok skal eigi leyna fé þessu, ok skal drotning skapa mér af þann hlut, sem hun vill, ok mun mér þat bezt gegna, eða hvárt mun hun vilja þat til vinna, at sœkja hingat féit? Þat ætla ek, segir þrællinn, ef með leynd er at farit. Hér er men ok hringr, er ek vil gefa þér, segir karl, ef þú kemr henni einni hingat í skóginn, enn ek skal setja þar ráð við, ef henni mislíkar til þín. Þessu ráða þeir ok kaupa; ferr hann nú heim, ok segir drotningu, at hann hafi fundit fé mikit í skógi, svá þat er margra manna sæla, ok biðr hana skyndilega fara með sér eftir fénu. Hun segir: Ef þetta er satt, sem þú segir, þá mun þér verða at þessarri sögn gæfa, ella höfuðbani; enn þó áðr at ek hefi reynt þik at trú-

lyndum manni, þá mun ek trúa þessu, er þú segir. Hun sýnir nú þat, at hun sé fégjörn, ok ferr með honum á laununngu á náttarþeli, svá enginn maðr veit, nema þau tvau. Ok er þau koma í skóginn, er Helgi þar fyrir, ok grípr hana höndum, ok segir þá vera skaplegan fund þeira at hefna sinnar svívirðingar. Drotning sagðist hafa illa breytt við hann: ok vil ek þat nú alt bœta við þik, ok gerðu til mín brúðkaup sœmilegt. Nei, sagði hann, eigi skal þér þess kostr; skaltu fara til skipa með mér, ok vera þar þá stund, sem mér líkar, því ek nenni eigi fyrir metnaðar sakir at hefna þér engu, svá illa sem ek var leikinn ok háðulega. Þér munuð nú ráða verða at sinni, sagði hun. Konungr hvíldi hjá drotningu margar nætr; ok eftir þat ferr drotning heim, ok er henni nú þvílíkt hefnt, sem nú var sagt, ok unir hun stórilla við hag sinn.

## IX. KAPÍTULI.

*Kvánfang Helga konungs.*

Eftir þat heldr Helgi konungr í hernað, ok var ágætr maðr. Ok er stundir liðu fram, fœðir Óluf barn, þat var mær; hun leggr á barn þat alla óstund. Hun átti hund þann, er Yrsa hét, ok þar eftir kallaði hun meyna, ok skyldi hun heita Yrsa; hun var væn at áliti; ok sem hun var tólf vetra gömul, skyldi hun gæta hjarðar ok aldri annat vitast, enn hun væri karls dóttir ok kerlingar, því drotningin hafði svá leynt með þessu farit, at fáir menn vissu, at hun hafði barn átt ok fœtt. Svá ferr nú fram, þartil at mærin er þrettán vetra; þá varð sá atburðr, at Helgi konungr kom (þar) við land, ok forvitnar at hafa tíðindi af landinu; hann hefir eina stafkarls gervi; hann sér

við skóg einn marga hjörð, ok þar gætti ein kona ung at aldri, ok svá fríð, at hann þykist ekki hafa sét fríðari konu; hann spyrr, hvat hun heiti, eða hverrar ættar hun sé. Hun segir: Ek em karlsdóttir, ok heiti ek Yrsa. Óþrælsleg augu hefir þú, sagði hann, ok rennir hann þegar ástarhug til hennar, ok sagði, at þat væri maklegt, at stafkarl ætti hana, fyrst hun er karls dóttir. Hun bað hann þat eigi gera, enn hann tekr hana sem áðr, ok hefr sik til skipa, ok siglir síðan heim í sitt ríki. Óluf drotning varð fáráð við þetta, ok eigi heilbrjóstuð, þá er hun vissi; lét hun sem hun vissi ei hvat um var, ok gerði þat í hug sér, at þetta mundi Helga konungi vera til harms ok svívirðingar, enn til einskis frama né yndis. Helgi konungr gerir nú brullaup til Yrsu, ok ann henni mikit.

## X. KAPÍTULI.

*Frá þeim bræðrum Helga ok Hróari.*

Helgi konungr átti hring, er mikil ágæti fylgði, ok þeir brœðr vildu hann báðir eiga, ok Signý systir þeira. Hróarr konungr kom eitt sinn í ríki Helga konungs bróður síns; gerir Helgi konungr prýðilega veizlu í móti honum. Hróarr konungr mælti: Þú munt vera okkar meiri maðr, enn fyrir þá sök, at ek hefi staðfest mik í Norðimbralandi, þá ann ek þér vel þessa ríkis, er við eigum báðir, ef þú vilt miðla mér nokkuru lausafé; vil ek fá hringinn þann, sem beztr gripr er í þinni eigu, ok við vildum báðir eiga. Helgi sagði: Eigi sómir annat, frændi, enn þú eigir hringinn víst. Við þessi ummæli þeira gleðjast báðir; fekk Helgi konungr Hróari konungi bróður sínum nú hringinn; ferr nú Hróarr konungr á burt ok heim í ríki sitt, ok sezt um kyrt.

## XI. KAPÍTULI.

*Hrókr son Sævils tekr ríki eftir föður sinn. Leitar fjár ok ríkis við Helga konung ok Hróar. Vinnr Hróar konung ok tekr ríki hans.*

Þat bar til tíðinda, at Sævill mágr þeira andaðist, ok tók Hrókr sonr hans ríki eftir hann; hann var grimmr maðr ok harðla ágjarn. Móðir hans segir honum mikit frá hringnum, er þeir brœðr áttu, ok þótti mér, sagði hun, ekki ósannlegt, at þeir brœðr minntust okkar um nokkurt ríki, því vér studdum þá í hefndum eftir föður várn, ok hafa þeir ekki minst þess við föður þinn né mik. Hrókr sagði: Þú segir dagsanna, ok er slíkt firnafult, ok nú skal ek eftir leita við þá, hvern sóma várn þeir vilja gera þar fyrir. Ferr hann síðan á fund Helga konungs, ok krefr hann þriðjung ríkis í Danmörk eða hringsins góða, því hann vissi þá ekki, at Hróarr átti hann. Konungr sagði: Þér mælið allfreklega til ok geysistórlega; unnu vér ríkit með hetjuskap, svá at vér lögðum várt líf í veð, með atstuðning föður þíns ok Regins fóstra míns, ok annarra góðra manna, er oss vildu lið veita; nú viljum vér þér víst laun á gera, ef þú kant at þekkjast, vegna frændsemi okkrar, enn svá mikit hefir mik kostat ríki þetta, at þat vil ek fyrir engan mun missa; enn Hróarr konungr hefir nú tekit við hringnum, ok vænti ek, at hann sé ekki lauss fyrir þér. Við þetta ferr Hrókr í burt, ok unir allilla við; sœkir nú á fund Hróars konungs; hann tók við honum vel ok sœmilega, ok er hann með honum um hríð. Ok eitt sinn, er þeir fara fyrir land fram, ok lágu á firði einum, þá mælti Hrókr: Þat þœtti mér þér sómi, frændi, at þú gæfir í mitt vald hringinn góða, ok mintist svá várrar frændsemi. Konungr sagði: Svá hefi ek mikit til gefit, at fá hring þenna, at ek vil hann fyrir eng-

an mun láta. Hrókr segir: Þá munt þú lofa mér at sjá hringinn, ok er mér á honum en mesta forvitni, at vita, hvárt hann er slík gersemi, sem sagt er. Þat er þér lítil veizla, segir Hróarr, ok skal þat víst láta eftir þér, ok fekk honum hringinn. Nú hugði Hrókr at hringnum um stund, ok kallaði ekki mega ofsögn frá segja, ok hefi ek enga gersemi séna slíka, ok er þat en mesta várkunn, at ykkr þyki allgóðr hringrinn; mun þat nú bezt ráð, at hvárgi okkar njóti, ok enginn annarra; fleygir síðan af hendi hringnum ok út á sjóinn, sem lengst mátti hann. Hróarr konungr mælti: Þú ert allillr maðr; hann lét síðan fóthöggva Hrók, ok flytja svá til ríkis síns; varð hann skjótt heill maðr, svá at greri fyrir stúfinn; þá safnar hann sér liði, ok vill hefna sinnar skammar; hann fær mikit lið ok kemr við Norðimbraland á óvart, þar sem Hróarr konungr var á veizlu heldr fámennr. Hrókr leggr þegar at, ok tókst þar harðr bardagi, ok er mikill liðsmunr, fellr þar Hróarr konungr, enn Hrókr leggr undir sik landit; hann lætr gefa sér konungsnafn; síðan bað hann Agnar, dóttur Norðra konungs, er áðr hafði átt Hróarr konungr frændi hans. Norðra konungi þótti nú fallit til sín mikit vankvæði, því hann var þá maðr gamall, ok lítt fallinn til at vera í baráttu; sagði nú Ögn dóttur sinni hvar komit var, ok lézt eigi vilja teljast undan at halda uppi bardaga, þótt hann væri gamall, ef þetta væri eigi á móti hennar skapi. Hun sagði með harmi miklum: Víst er þetta í móti mínum vilja, enn þó ek sé, at líf þitt liggr við, þá vil ek honum eigi frá vísa með því móti, at frest sé gert nokkurt, því ek em með barni, ok verðr þat mál fyrst at greiðast, ok á þat barn með mér Hróarr konungr. Nú er þetta

mál borit fyrir Hrók, enn hann vill frestit til gefa, ef hann skal þá auðvellegar komast at ríki ok ráðahagnum; þykist Hrókr hafa mjök framazt í þessarri ferð, er hann hefði feldan frægan konung, ok ríkan unnit. Enn í þessum svifum sendir Ögn menn á fund Helga konungs, ok bað svá at láta segja honum, at hun mundi eigi koma í rekkju Hróks, ef hun væri sjâlfráð ok ónauðig: fyrir þá sök, at ek er með barni Hróars konungs. Sendimenn fóru, ok sögðu svá, sem boðit var. Helgi konungr sagði: Þetta er vitrlega sagt hennar vegna, því hefna mun ek Hróars bróður míns; enn Hrók grunar þetta ekki.

## XII. KAPÍITULI.

*Upphaf Agnars Hróarssonar. — Agnarr kafar í sjó ok finnr hringinn góða. — Fæddr Hrólfr kraki.*

Ögn drotting fæðir nú son þann, er Agnarr hét; hann var snemma mikill ok efnilegr. Enn er Helgi konungr spurði þetta, safnar hann liði, ok ferr á fund Hróks; tekst þar bardagi, ok svá lýkr, at Hrókr verðr handtekinn. Þá mælti Helgi konungr: Þú ert allillr höfðingi, enn því mun ek eigi drepa þig, at þér er meiri skömm at lifa við harmkvæli; síðan lét hann brjóta fótleggi hans ok handleggi, ok sendi hann svá aftr í ríki sitt, at hann var til einskis fœrr. Enn er Agnarr Hróarsson var tólf vetra, þóttust menn ekki hafa sét þvílíkan mann, ok um alla atgervi var hann fram yfir aðra menn; hann gerðist hermaðr svá mikill ok frægr, at hans er víða getit í fornum sögum, at hann hafi mestr kappi verit at fornu ok nýju. Hann spurðist eftir hvar fjörðr sá væri, sem Hrókr hafði slengt hringnum utan borðs; margir höfðu eftir honum leitat með alskonar vígvélum ok náðu honum eigi.

Ok svá er sagt, at Agnarr kemr skipi sínu á þenna fjörð, ok mælti: Þat væri nú snarræði at sœkja eftir hringnum, ef menn hafa hér glögg mið á; menn sögðu honum þá, hvar honum hefði verit á sjóinn kastat. Síðan býr Agnarr sik til, ok kafar í djúpit, ok kemr upp ok hefir eigi hringinn; ofan fór hann í annat sinn ok hefir eigi náð honum, er hann kemr upp; nú mælti hann: Slœlega er nú eftir sótt, ok fór svá niðr í þriðja sinn kom þá upp með hringinn; af þessu varð hann ágætlega frægr, ok frægari enn hans faðir, Hróarr konungr; sitr nú í ríki sínu um vetrum, enn í víkingu á sumrin, ok gerðist frægr maðr, ok meiri enn hans faðir. Þau (Helgi konungr ok) Yrsa unnust mikit, ok áttu einn son, þann er Hrólfr hét, er mikill mætamaðr varð síðan.

## XIII. KAPÍTULI.

*Óluf drotning ferr á fund Yrsu, ok segir henni et sanna um ætt hennar. — Skilr Yrsa við Helga konung.*

Óluf drotning spyrr, at þau Helgi ok Yrsa unnust mikit, ok una vel ráði sínu; þat líkar henni ekki vel, ok ferr á fund þeira; ok sem hun kom þar við land, sendir hun orð Yrsu drotningu; ok sem þær hittast, býðr Yrsa henni heim til hallar með sér; hun kveðst þat eigi vilja, kveðst engan sóma eiga at launa Helga konungi. Yrsa mælti: Óvirðulega gerðir þú til mín, er ek var með þér, eða kantu nokkut at segja mér frá ætt minni, hver hun er? Því mik grunar, at eigi sé svá, sem mér er til kent, at ek væri ein karls dóttir ok kerlingar. Óluf sagði: Ekki er þess örvænt, at ek kunni at segja þér nokkut þar af; var þat mitt mesta erindi hingat, at ek vildi kunngera þér þat, eða unir þú vel við ráðahaginn? Já, segir hún, ok má ek vel við una, því ek á enn ágætasta konung

ok enn frægasta. Ekki er svá gott við at una, sem þér þykir, segir Óluf, því hann er faðir þinn, enn þú ert dóttir mín. Yrsa mælti: Mína ætla ek móðurina versta ok grimmasta, því þetta eru þau ódœmi, er eigi munu fyrnast um aldr. Helga hefir þú goldit at í þessu, segir Óluf, ok reiði minnar, enn nú vil ek bjóða þér til mín með sœmð ok virðingu, ok gera til þín í alla staði eftir því, sem ek kann bezt. Yrsa segir: Eigi veit ek hvárnig þat gefst, enn eigi mun ek hér vera, þegar ek veit þessi ódœmi sem á liggja; hun hittir síðan Helga konung, ok segir honum hversu þunglega er tilkomit. Konungr sagði: Œrit grimma áttu móðurina, enn þat vilda ek, at svá búit væri; hun kvað ekki svá búit vera mega, at þau séu samvistum þaðan í frá. Ferr Yrsa nú með Ólufu drotningu, ok er í Saxlandi um hríð. Svá bítr þetta á Helga konung, at hann lagðist í rekkju, ok var allókátr. Ekki þótti þá annarr kostr betri enn þat, sem Yrsa var, enn þó gerðust konungar seint til at biðja hennar, ok bar þat mest til, at aldri þótti örvænt, (at) Helgi kœmi eftir henni, ok léti sér misþóknast, ef hún væri gift öðrum.

## XIV. KAPÍTULI.

*Frá Aðils konungi.*

Aðils hét konungr, ríkr ok ágjarn; hann réð fyrir Svíaríki, ok sat at höfuðborginni Uppsölum; hann spyrr til þessarrar konu Yrsu, ok býr síðan skip sín; hann ferr á fund þeira Ólufar ok Yrsu. Óluf gerir veizlu í móti Aðils konungi, ok tekr við honum með allri list ok kurteisi; hann biðr Yrsu drotningar sér til eiginkonu. Óluf svarar: Spurt muntu hafa slíkan málavöxt, sem er á hag hennar, enn ekki setjum vér

